# TÍMARIT

**Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi**

XLI. ÁRGANGUR

---

Tilgangur félagsins er:

1. Að stuðla að því af fremsta megni að Íslendingar megi verða sem bestir borgarar í hérlendu þjóðlífi.

2. Að styðja og styrkja íslenska tungu og bókvísi í Vesturheimi.

3. Að efla samúð og samvinnu meðal Íslendinga austan hafs og vestan.

Þetta er sá félagsskapur meðal Íslendinga í Vesturheimi, er aðallega byggir á þjóðernislegum grundvelli og hvetja vill þá til framsóknar og virðingar til jafns við þá þjóðflokka aðra, er þetta land byggja.

**Meðlimagjald $2.00 á ári**

---

**Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi**

Winnipeg, Canada

# IN MEMORIAM

HEIÐURSFÉLAGAR OG FORSETAR

His Excellency Lord Tweedsmuir, Hon. Patron
His Excellency the Rt. Hon. The Earl of Athlone, K.C.
Kjartan Helgason, fyrrum prófastur
Stephan G. Stephanson, skáld
Frú Stefanía Guðmundsdóttir, leikkona
Prófessor Sv. Sveinbjörnsson, tónskáld
Þorbjörn Bjarnason, skáld (Þorskabítur)
Einar H. Kvaran, rithöfundur
Ragnar E. Kvaran, fyrrum prestur og forseti
Kristján Níels Júlíus (K. N.), skáld
Séra Jónas A. Sigurðsson, skáld og forseti
Dr. Rögnvaldur Pétursson, forseti og ritstjóri
Prófessor F. S. Cawley, Ph.D.
Friðrik Swanson, málari
Kapt. Sigtryggur Jónasson
Dr. B. J. Brandson, læknir
J. Magnús Bjarnason, rithöfundur
Dr. Hjörtur Thordarson, raffræðingur
Mrs. Guðrún H. Finnsdóttir, skáldkona
Friðrik Hallgrímsson, dómprófastur
A. S. Bardal, útfararstjóri
Ólafur Pétursson, fasteignasali
Sveinn Björnsson, forseti Íslands
Árni Pálsson, prófessor
Sigurgeir Sigurðsson, biskup
Ásmundur P. Jóhannsson
Dr. A. H. S. Gillson, U. of M. President
Einar Jónsson, myndhöggvari
Jón J. Bíldfell, fyrrum ritstjóri
Einar Sturlaugsson, prófastur
Þ. Þ. Þorsteinsson, skáld
Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, skáld
Gunnar B. Björnsson
G. J. Oleson
Halldór Hermannsson, prófessor
Dr. theol. Rúnólfur Marteinsson
Einar Páll Jónsson, ritstjóri og skáld

# Félagatal Þjóðræknisfélagsins 1959

## A. Heiðursverndarar

His Excellency the Right Honourable Vincent Massey, fyrrv. landstjóri Kanada.
Herra Ásgeir Ásgeirsson, forseti Íslands.

## B. Heiðursfélagar

Dr. Vilhjálmur Stefánsson, landkönnuður, Hanover, New Hampshire
Prófessor Sigurður Nordal, Reykjavík, Ísland
Dr. Watson Kirkconnell, President, Acadia University, Wolfville, N. S.
Dr. Henry Goddard Leach, New York, N. Y.
Rt. Rev. C. V. Pilcher, D.D., Sydney, Australia
Jóhannes Jósefsson, íþróttamaður, Reykjavík, Ísland
Guttormur J. Guttormsson, skáld, Riverton, Man.
Mrs. Jakobína Johnson, skáldkona, Seattle, Wash.
Mrs. Laura Goodman Salverson, skáldkona, Toronto, Ont.
Fröken Halldóra Bjarnadóttir, ritstj. Hlín, Blöndósi, Ísland
Jónas Jónsson, fyrrv. alþingismaður, Reykjavík, Ísland
Thor Thors, sendiherra Íslands, Washington, D.C.
J. T. Thorson, yfirdómari, Ottawa, Ontario
Árni G. Eylands, stjórnarráðsfulltrúi, Stavanger, Noregi
Vilhjálmur Þór, bankastjóri, Reykjavík, Ísland
Gísli Jónsson, ritstjóri Tímaritsins, Winnipeg, Manitoba
Dr. John C. West, fyrrv. forseti Ríkisháskólans í North Dakota
Próf. Ásmundur Guðmundsson, fyrrum biskup Íslands
Séra Albert E. Kristjánsson, prestur, Blaine, Washington
Prófessor Richard Beck, Grand Forks, North Dakota
Dr. Helgi P. Briem, sendiherra, Bonn, Þýzkaland
Sigurður Þórðarson, söngstjóri, Reykjavík, Ísland
Dr. Thorbergur Thorvaldson, prófessor emeritus, Saskatoon, Sask.
Dr. Árni Helgason, raffræðingur, Chicago, Ill.
P. H. T. Thorlakson, M.D., Winnipeg, Manitoba
Guðmundur Grímsson, yfirdómari, Bismarck, North Dakota
Stefán Einarsson, fyrrv. ritstjóri Heimskringlu, Vancouver, B.C.
Dr. Stefán Einarsson, prófessor, Baltimore, Md.
Gunnar Thoroddsen, ráðherra, Reykjavík, Ísland
Valdimar Björnsson, ríkisféhirðir, Minneapolis
Guðmann Levy, fjármálaritari Þjóðræknisfélagsins, Winnipeg, Man.
Dr. theol. Valdimar J. Eylands, Winnipeg, Man.
Dr. Þorkell Jóhannesson, háskólarektor, Reykjavík, Ísland.

**C. Styrktarmeðlimir**

Mr. Johann Th. Beck
Mr. Guðmann Levy
Mrs. J. Nordal
Mrs. Lovisa G. Gislason
Mr. Björgúlfur Sveinsson
Mr. Ólafur Hallsson
Mr. Páll Guðmundsson
Mrs. G. J. Johnson
Mr. Páll Th. Stefánsson
Mrs. M. Goodman
Miss H. Kristjansson
Miss Sigríður Jacobsson
Mr. Dan. Lindal
Mr. Gunnar Brynjolfsson
Hon. Valdimar Bjornson
Mrs. Thordís Fisher
Mrs. Kristín Thorsteinsson, í minningu um Mr. J. K. Benson, d. 1958
Mr. Walter Johannson
Mr. Grettir Leo Johannson

**D. Ævifélagar**

K. Valdimar Björnson, Minneapolis, Minn., U. S. A.
Björn Björnson, Consul of Iceland, Minneapolis, Minn. U. S. A.
Dr. Helgi P. Briem, Ambassador for Iceland, Bonn, Germany
Grettir Eggertson, Winnipeg, Man.
Dr. Árni Helgason, Consul of Iceland, Wilmette, Ill., U. S. A.
Eric Ísfeld, Winnipge, Man.
Grettir Leo Johannson, Consul of Iceland, Winnipeg, Man.
J. Walter Jóhannson leikstjóri, Pine Falls, Man.
Mrs. B. E. Johnson, Winnipeg, Man.
Guðmann Levy, Winnipeg, Man.
Mrs. Anna Margrét Levy, Winnipeg, Man.
Óskar E. Levy hreppstjóri, Ósum, Húnavatnss., Iceland
Gunnar R. Pálsson, Lake Park, Florida, U. S. A.
Rev. P. M. Pétursson, Winnipeg, Man.
Árni Sigurðsson, Seven Sisters Falls, Man.
Dr. P. H. T. Thorlakson, Winnipeg, Man.

**E. Ársfélagar**

1. ÍSLAND

Jóhannes Eiríksson, Kristneshæli, Eyjafjarðarsýslu

2. KANADA

**Atikokan, Ont.**

Einar I. Swanbergson

**Baldur, Man.**

J. A. Sveinsson

**Brandon, Man.**
Dr. E. J. Skafel

**Hayland, Man.**
Sigurður B. Helgason

**Foam Lake, Sask.**
Mrs. Steinunn Inge

**Matheson, Island, Man.**
Árni G. Johnson

**Montreal, Ont.**
Mrs. H. L. Robson

**Prince Rupert, B.C.**
Mrs. Fríða Phillipson
Kristján Einarsson

**Pigeon Point, Man.**
Valgeir G. Stadfeld

**Riverton, Man.**
Hallgrímur Joh. Stadfeld

**Saichton, B.C.**
Mrs. Thordis Fisher

**Vancouver, B.C.**
Mrs. S. Johnson

**Wapah, Man.**
J. Ragnar Johnson

**Winnipeg, Man.**
J. A. Eastman
Miss Vilborg Eyjólfson
Mrs. Gyða Hurst
Halldór J. Stefánsson

**Wynyard, Sask.**
Jakob J. Norman

3. BANDARÍKIN

**Boston, Mass.**
Kapt. Jóhannes G. Ásgeirsson
Einar Barnes
Ari Bjarnason
Valgeir Einarsson
Kapt. Thor Guðmundss.
Kapt. Gunnl. Illugason
Kapt. Guðm. Jóhanness.
Gunnlaugur Jónsson
Kapt. Theodór Jónsson
Guðmundur Pálsson
Pálmi M. Sigurðsson
Kapt. Óskar Gíslason
David Love
Ólafur Sigurbjörnsson

**Cashmere, Wash.**
Chris Guðmundson

**Chapel Hill, N. Carolina**
Prof. Sigurður Jónsson

**Cismont, Va.**
Prof. Frederic T. Wood.

**Grand Forks, N. Dak.**
Mrs. V. Guðmundson, University of N. Dak. Library

**New Brunswick, N. J.**
Prof. Helgi Johnson, Rutgers University Library

**Minneapolis, Minn.**
G. T. Athelstan

**New Haven, Conn.**
Yale University Library

**Oceanside, L.I., N.Y.**
Andrés Guðmundson

**Salinas, Calif.**
Prof. Loftur Bjarnason

**Des Moines, Wash.**
Mrs. Mekkin S. Perkins

4. DEILDIR OG SAMBANDSFÉLÖG

**The Icelandic Society of New York**
Hannes Kjartanson
Jerome Miller
Mrs. Jerome Miller
Miss Halldóra Rútsdóttir
Ludvik Jónsson
Richard Richardson
Mrs. Lára Gosh
Mrs. Margrét Rossback
Mrs. Thorey Vogle
Edward Eoulfield
D. Sommerfield
Árni Ólafsson

**Sambandsfélagið „Vestri", Seattle, Wash.**
Fred Nelson
Mrs. Fred Nelson
John Thorgeir Johnson
Jón Sigurðson
Árni Þór Víking
Mrs. Árni Þór Víking
Sigurþór Margeirson
Mrs. Sigurþór Margeirs.
Stefán Haukson
Snorri Haukson
Rev. G. P. Johnson
Mrs. G. P. Johnson
Mrs. Anna Hanley
Halldór Viðarson
Mrs. Halldór Viðarson
Mrs. Helga Andal
Mrs. Sophia Wallace
Mrs. Arndis Olafsson
Mrs. Dora Rosswick
Ástvaldur Eydal
O. B. Johannson
Mrs. O. B. Johannson
Jonas J. Middal
Mrs. Sólveig Olson
Pálmi Pálmason
Mrs. Anna Pálmason
Mrs. Gudrun Page
J. E. Samuelson
Mrs. J. E. Samuelson
Byron Samuelson
Mrs. Byron Samuelson
Mrs. Emma Scheving
Stefán Scheving
Mrs. Anna Scheving
Mrs. Ruth Sigurdson
S. S. Thordarson
Björg Thordarson
Kristinn Thorsteinson
Mrs. Elin Thorsteinson
Miss Ingibjörg Matthiass.
Miss Dora Grímson
Mrs. Jónas J. Middal
Björn Ásmundson
Mrs. Björn Ásmundson
Ólafur Bjarnason
Mrs. Ó. Bjarnason
Tani Björnson
Mrs. Sigrid Björnson
S. H. Christianson
Mrs. S. H. Christianson
Mrs. Sigga Franks
F. J. Frederickson, Everett, Wash.
Mrs. F. J. Frederickson, Everett, Wash.
Mrs. Margret George

Stefán B. Johnson
Mrs. Steina Johnson
Kjartan J. Johnson
Mrs. Brynhildur Jónsson
Marvin Jónsson
Sigurlaug Johnson
Mrs. Sarah Johnson
Jón Magnússon
Mrs. Jón Magnússon

Heiðursmeðlimir:
Mrs. Jakobina Johnson
H. E. Magnusson
Mrs. Helga Johnson
K. F. Frederick
Gunnar Matthíasson, Los Angeles, Calif.

**Deildin „Báran", Mountain, N. Dak.**

Heiðursmeðlimir:
Dr. Richard Beck
Gamaliel Thorleifson
H. J. Hjaltalín

Meðlimir:
Séra Ólafur Skúlason
Mrs. Ebba Skúlason
Hannes Melsted
A. J. Byron
Leonard Benson
Mrs. Lena Stratton
G. J. Jonason
Elmo Christjanson
John Askdal
A. M. Ásgrímson
W. M. Sigurdson
Fred Haldorson
F. M. Einarson
S. B. Sigurdson
Mike Byron
Matt. Bjornson
Mrs. Garder Johnson
Walter Johnson
H. S. Walter
Gestur J. Gestson
Ole G. Johnson
Steini Myrdal
Albert Bjarnason
H. M. Jonason
G. A. Gudmundson
B. K. Anderson
John H. Johnson
Alvin Melsted
Helgi Laxdal
Fred Olafson
Steve Thordarson
S. F. Bjornson
Haldor Goodman
Oli B. Thorsteinson
Leo J. Laxdal
Steini Goodman
Barney Stevenson
V. G. Gudmundson
Miss Kristbjörg Kristjánson
Sigm. Gudmundson
O. G. Johnson
Helgi Beikdal
P. B. Olafson
G. Gudmundson
Josep Anderson
H. B. Grimson
Einar Einarson
John J. Einarson
Hannes Bjornson
Hjalti B. Thorfinnson
S. A. Bjornson
Haraldur Olafson
W. M. Austfjord
Mrs. G. Gunnarson
Victor Sturlaugson
Olafur Hörgdal
Haraldur Olafson
Séra Hjalti Guðmundsson

**Deildin „Esja", Arborg, Manitoba**

Jónína Alexander
Gunnar Sæmundson
W. S. Eyjólfsson
K. N. S. Friðfinnsson
Björgvin Hólm
Þorbjörg Jónasson
Olga Anderson
Halldór Austman
Kristveig Jóhannesson
G. M. Bjornson
T. Böðvarsson
Páll Th. Stefánsson
Sigurður Vopnford
Pálína Hornfjörð
Sigurður Pálsson
Bergur Vigfússon
Andrés Fjelsteð
Guðjón Stefansson
Rikka Magnusson
Magnús Gíslason




# EATON'S OF CANADA

## Winnipeg's Shopping Showplace



EATON'S new CARPARK connects with the Main Store by Overpass and Underpass, for your complete shopping convenience.

No wonder most of the parcels you'll see people carrying in Winnipeg seem to be from EATON'S —it's because shopping at EATON'S is such a satisfying experience! Generations of Canadians from coast to coast have found it so, and visitors tell us shopping at EATON'S is one of the nicest parts of any visit to Winnipeg.

You'll enjoy every moment you spend in this big eight-floor store with its enormous array of merchandise for every need and from every part of the world. You'll like the time-honoured guarantee that protects every purchase you make —*"Goods Satisfactory or Money Refunded."* You'll find courteous service, attractive surroundings, excellent dining facilities, and a host of little specialty shops of particular interest to visitors.

Most of all you'll discover that THE BIG CHOICE, THE BEST CHOICE, IS AT EATON'S.



# TÍMARIT

## ÞJÓÐRÆKNISFÉLAGS ÍSLENDINGA

FERTUGASTI OG FYRSTI ÁRGANGUR, 1959

Ritstjórar

GÍSLI JÓNSSON

HARALDUR BESSASON




WINNIPEG, MANITOBA

Gefið út af Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi

1960

# Myndir



PRENTAÐ HJÁ COLUMBIA PRINTERS, WINNIPEG

# Efnisyfirlit

# Einar Páll Jónsson



**ritstjóri og skáld**
1880—1959

PRÓFESSOR HARALDUR BESSASON:

# Einar Páll Jónsson

## RITSTJÓRI OG SKÁLD

Eins og kunnugt er, andaðist Einar Páll Jónsson skáld og ritstjóri hér í Winnipeg þann 27. dag maímánaðar 1959.

Tímariti Þjóðræknisfélagsins er það bæði ljúft og skylt að minnast þessa manns. En hann kom mjög við sögu Íslendinga í Vesturheimi um 45 ára skeið.

Einar Páll, eins og hann var jafnan nefndur í daglegu tali, var fæddur að Háreksstöðum á Jökuldal í Norður-Múlasýslu 11. ágúst 1880. Foreldrar hans voru þau Jón Benjamínsson og Anna Jónsdóttir. Einar var þannig hálfbróðir þeirra Gunnars bónda á Fossvöllum, Þórarins tónskálds á Seyðisfirði, Gísla ritstjóra og skálds í Winnipeg og Ísaks byggingarmeistara, manns frú Jakobínu Johnson skáldkonu, en albróðir sr. Sigurjóns fyrrum prests á Kirkjubæ í Hróarstungu.

Árið 1902 settist Einar Páll í annan bekk lærða skólans í Reykjavík, og stundaði hann nám í þeim skóla í þrjú ár. Mikið mannval var í lærða skólanum þessi árin, og margir þeir, sem þá sóttu skólann, urðu síðar þjóðkunnir menn á ýmsum sviðum.

Það leikur ekki á tveimur tungum, að skólaárin í Reykjavík höfðu djúp áhrif á Einar Pál. Á þessum árum eignaðist hann marga vini, sem hann hélt traustu sambandi við alla ævi, og það mun naumast ofmælt, að þessi vináttubönd hafi ekki hvað sízt valdið því, að Einari tókst alla tíð að halda sig „í andlegri nálægð við Ísland“.

Eftir að skólavist lauk, dvaldist Einar um árabil í Reykjavík. Fékkst hann meðal annars mjög við ritstörf og tók virkan þátt í stjórnmálum. Fylgdi hann flokki landvarnarmanna að málum.

Árið 1913 fluttist Einar til Vesturheims, og fjórum árum seinna gerðist hann meðritstjóri vikublaðsins Lögbergs í Winnipeg. Árið 1927 gerðist hann aðalritstjóri sama blaðs og gegndi því starfi nær því óslitið til æviloka.

Blaðamennsku Einars yrði ekki gerð viðunandi skil nema í löngu máli. Mun hér á eftir höfuðatriða einna getið.

Dr. Richard Beck hefir í ágætri grein, sem hann reit um Einar í Eimreiðina í júlí-september hefti 1942, vikið allítarlega að ritstjórnargreinum hans, sem eru bæði fjölbreytilegar og efnismiklar. Það fer að vonum um mann, sem hafði náin kynni af lokaþætti íslenzkrar sjálfstæðisbaráttu, að honum yrði tíðrætt um „úrslitabaráttuna milli frelsis og harðstjórnar“, þegar heimsmál bar á góma. Enda eru þær margar greinarnar, sem sýna lýðræðissinnan Einar Pál, og er hann í þeim greinum hvergi myrkur í máli, eins og jafnvel má sjá af fyrirsögnum einum eins og t. d. „Hugsjón gegn hnefa“ (21. maí 1942) og „Prófraun lýðræðisins“ (13. febrúar 1941).

Þá er mikill sægur greina, sem fjalla um bókmenntir og listir og þjóðræknismál Íslendinga í Vesturheimi.

Sá, sem kynnir sér sögu vesturíslenzku vikublaðanna, kemst fljótlega að raun um það, að þessi blöð voru tíðum viðriðin deilur allsnarpar. Er slíkt síður en svo einsdæmi í sögu íslenzkrar blaðamennsku. Einar Páll ritstjóri Lögbergs var vel vopnum búinn, ef til þurfti að grípa, en hann beitti þeim sjaldan. Skömmu eftir að hann varð aðalritstjóri Lögbergs, komu upp allharkalegar deilur meðal Vestur-Íslendinga eða „Heimferðarmálið“ svo nefnda. Bæði blöðin drógust inn í þessar deilur, eins og vænta mátti. En ekki leið á löngu, þangað til sjóinn tók að kyrra, og hefir verið næsta kyrrt á miðunum síðan. Þannig tókst Einari Páli að halda sig utan við dægurþras meginhluta ritstjórnartíðar sinnar, og er slíkt ekki lítils vert. Hygg ég, að til þess hafi dregið ófýsi hans sjálfs á þeim vettvangi og vilji hans á því að halda uppi jákvæðu uppbyggingarstarfi. Þessi stefna, sem hann átti drjúgan þátt í að skapa blaði sínu, hefir ekki einungis sett skýr mörk á vestur-íslenzka blaðamennsku, heldur og reynzt henni drýgst til langlífis.

Stíll Einars Páls var mjög sérstæður og persónueinkenni svo skýr, að segja má, að hver setning sverji sig í ættina. Orðaforðinn var mikill og tíðum til hans gripið. Lýsingarorðin voru stundum allsterk, en þau voru ávallt fremur notuð til þess að fegra heldur en til þess að draga hinar dekkri línur. Málfarið var aldrei hversdagslegt, heldur runnið frá þeim rótum, sem dýpst ná í íslenzkum jarðvegi, fornum og nýjum.

Höfuðmarkmið íslenzkrar þjóðræknisstarfsemi vestanhafs og þá um leið íslenzkrar blaðamennsku hefir frá fyrstu tíð verið viðhald íslenzkrar tungu, þeirrar líftaugar, sem traustust hefir reynzt milli landanna tveggja. Þessi starfsemi hefir átt við ýmsa örðugleika að etja, eins og hver og einn getur látið sér skiljast. Hér hefir þurft með þrautseigju og trú á góðan málsstað. Það var í þágu þessa málsstaðar, sem Einar Páll vann við engar sleitur nærfellt hálfa öld. Það ætla ég, að hann hafi í skrifum sínum fremur sótt en varizt, enda má það vera vafamál, að íslenzk tunga í Vesturheimi hafi nokkru sinni eignazt ótrauðari talsmann en hann. Hann skildi, hvar skórinn kreppti að, en undanlátssemi vildi hann í engu sýna. Í þjóðræknishvöt, sem hann reit í janúar 1940, vitnar Einar í vísu Þorsteins Erlingssonar, þar sem er í ljóðlínan „en enginn fær mig ofan í jörð“ o. s. frv. Líklega verður það seint að fullu metið, að hve miklu leyti brýningar þjóðræknismanna vorra hafa stuðlað að varðveizlu íslenzkunnar á þessu meginlandi. Víst er um það, að vikublöðin í Winnipeg hafa lagt hér mikið að mörkum, enda hafa ýmsir þá sögu að segja, að án þeirra hefðu þeir glatað sínu íslenzka móðurmáli.

Það er alkunna, að hverju sinni sem framkvæmdir hafa verið á döfinni meðal Vestur-Íslendinga sem sérstaks þjóðarbrots, hafa þeir notið dyggilegs stuðnings blaða sinna. Einar Páll brást aldrei sem skeleggur liðsmaður á þessum vettvangi. Ekki er unnt að telja hér upp öll

þau málefni, sem hann lagði lið í blaði sínu og utan þess, en ekki vil ég láta hjá líða að geta stofnunar kennarastólsins í íslenzku við háskólann í Manitoba, en stofnun hans studdi Einar með ráðum og dáð.

Margur kann að vera harðla ófróður um starf blaðamannsins. Því starfi fylgir mikill erill. Þeir eru ótrúlega margir smámunirnir, sem taka þarf með í reikninginn á degi hverjum. Tímatakmörk vofa sífellt yfir höfði, og auk þess fær ritstjórinn oft lítið næði á skrifstofu sinni. Síminn hringir oft á klukkustund, og bréf berast daglega, sem krefjast svars. En blaðamennskan hefir einnig sínar björtu hliðar. Starfið er lifandi og viðfangsefnin breytileg frá degi til dags, og viss er ég um það, að hefði Einar Páll mátt kjósa sér ævistarf öðru sinni, hefði hann kosið blaðamennskuna og Lögberg og skrifstofuna á Sargent, sem um tugi ára var ein af miðstöðvum íslenzkustu Íslendinganna í Winnipeg.

Einu sinni heyrði ég fróðleiksfúsa konu spyrja vitran mann, hver væri munurinn á hagyrðingi og skáldi. Ef ég man rétt, vafðist hinum vitra manni tunga um tönn, og lái honum það hver sem vill. Spurningin er flókin. Flest skáld eru hagyrðingar, en þó þarf þetta tvennt ekki nauðsynlega að fara saman. Einar Páll Jónsson var skáld. Á því er enginn efi. Allur þorri kvæða hans ber vitni um þetta. Skáldlegar myndir í þessum kvæðum eru ósjaldan með slíkum ágætum, að lengi þarf að leita að öðrum betri. En Einar var einnig hagyrðingur að því leyti, að smekkvísi hans í meðferð íslenzks máls brást honum ekki. Hann hafði til að bera óvenjunæmt fegurðarskyn.

Eftir Einar liggja tvær ljóðabækur, Öræfaljóð 1915 og Sólheimar 1944. Auk þess hafa nokkur kvæði komið á prent, eftir að seinni ljóðabókin kom út.

Kvæðin áttu sér rætur í leynihólfum hjartans, og eins og títt er um skáld, flíkaði Einar lítt sínum eigin ljóðum. Hann var maður ljóðelskur, en bar þær tilfinningar sínar ekki á torg. Ívitnanir í ljóð hafði hann ávallt á reiðum höndum, en hann greip aðeins til þeirra, þegar við átti. Svipaði honum í engu til óljóðrænna stritmanna, sem vér oft heyrum þylja ljóð af skilnings- og miskunnarleysi.

Einar reit margt um ljóðagerð í blað sitt og kynnti mörg hinna yngri skálda íslenzkra fyrir íslenzkum ljóðaunnendum vestan hafs.

Hér verður ekki farið út í það að rekja áhrif annarra á ljóðagerð Einars, enda eru slík vísindi viðsjárverð, hvaða skáld sem í hlut á. Hitt mun engum dyljast, sem les kvæðin hans, að höfundurinn hefir á þroskaárum sínum hrifizt með þeim „vormönnum", sem rufu svefn hinnar íslenzku þjóðar. Víst er um það, að mjög dáði Einar nafna sinn Benediktsson, og ekki mat hann lítils kvæði séra Matthíasar. Það sanna hin ágætu kvæði hans um þessa tvo höfuðskörunga.

Hin lýsandi kvæði, þar sem myndir eru mjög sóttar til móður náttúru, skipa allmikið rúm í ljóðasöfnum Einars. Kemur þetta skýrt fram í kvæðum eins og „Haf", „Brim", „Upprisa vorsins" og „Vetur". Í síðastgreindu kvæði er þetta erindi:

„Þótt mælirðu oft af miklum þjósti,
er máske vott um brá.
Mér heyrist ég kenna í hörkugjósti
hálfdreymda sumarþrá —
finn jafnt í eldgígs og íssins brjósti
eilífðar-hjartað slá.“

Í kvæðinu „Sumarlok“ er þetta lokaerindi:

„Sigðirnar blika við bleikan svörð —
nú berjast um völdin á himni og
jörð
tvö megin-öfl mannlífsins strauma:
Haustjátning ísköld á aðra hlið —
og eilífðartrúin á sumarið
í starfsvöku dýrðlegra drauma.“

Það er „eilífðartrúin á sumarið“, sem er hinn rauði þráður í mörgum þessara kvæða.

Nokkur kvæði eru táknrænar mannlýsingar af ýmsu tagi. Nærfærnisleg er lýsingin á „Stínu í þvottahúsinu“, sem þrátt fyrir vosbúð langar ævi varðveitti sína íslenzku sál í sléttuborginni Winnipeg, þar sem ekki bauðst annað ævistarf en að þvo „af ótal þjóðernum“.

Enn er þó ótalinn sá þátturinn, sem höfuðrúm skipað í fyrrgreindum kvæðasöfnum, en það eru tækifæriskvæðin. Einar Páll kom víða við á langri ævi, og margir voru þeir vinirnir, sem hann taldi drápunnar verða, en meðal þessara vina hans eru margir þeir, sem héldu merki hins íslenzka þjóðernis hæst á loft hérna megin hafs. Þau voru og ófá sporin, sem hann fór til þess að flytja kvæði á íslenzkum samkomum. Við þau tækifæri urðu mörg af beztu ættjarðarljóðum hans til.

„Hún skýrist í huganum, móðir,
þín mynd
þess meir sem að líður á dag;“

eru ljóðlínur úr kvæðinu „Móðir í austri“, og móðirin í austri hlaut ómældan skerf í kvæðum Einars. Þó að mörg ættjarðarkvæðanna væru flutt við ákveðin tækifæri, verður ekki sagt, að þau væru ort eftir beiðni. Þau komu frá hjarta höfundarins.

Í ættjarðarkvæðunum kemur þjóðrækni Einars Páls hvað skýrast fram. „Hið eilífa norræna mót“ verður eigi máð út. „Vort lífstré er eitt þó að afkvistað sé“, og það kennir ekki undanlátssemi, heldur réttmæts stolts í eftirfarandi erindi, sem er upphafserindi í kvæðinu „Rödd úr vestri“, en það kvæði flutti Einar yfir millilandaútvarp frá Winnipeg til Íslands, 1. des. 1938:

„Oss brennir ei þörf fyrir útfararóð,
því enn er hér landnám í gerð;
í liðsbón ei heldur vér leitum til
neins,
né lögsögumanna á ferð.
Vér spinnum hér einir vorn
örlagaþráð,
þó allt sé með nýlendubrag.
En framundan eygjum vér,
íslenzkir menn,
hinn andlega fullveldisdag.“

Einar Páll fékkst talsvert við ljóðaþýðingar og þýddi meðal annars kvæði eftir E. A. Guest, G. S. Hellman, J. B. Rittenhouse, W. Kirkwood, Bliss Carman og T. Moore. Ljóð hans sum hafa og verið þýdd á enska tungu.

Sumarið 1947 fór Einar Páll til Íslands í fylgd með konu sinni, frú Ingibjörgu, og fleiri gestum, sem þá héldu heim í boði ríkisstjórnar Íslands. Höfðu þau hjón mikla ánægju af förinni. Litlu síðar reit Einar

pistil sinn „Í andlegri nálægð við Ísland“.

Maðurinn Einar Páll verður æ minnisstæður þeim, sem kynntust honum. Hann var sérstæður persónuleiki og enginn hversdagsmaður. Í kunningjahópi var hann manna ræðnastur, og menn hlýddu gjarna á mál hans, því að hann kunni frá mörgu að segja og var óspar á sömu kjarnyrðin, sem honum voru svo töm í rituðu máli. Hann var geðbrigðamaður, eins og títt er um listamenn, en lundin var tamin, og sú hliðin vissi jafnan út, sem er í ætt við sólarljósið og gleðina.

Þrátt fyrir næstum hálfrar aldar dvöl í fjarska við Ísland, var Einar Páll fyrst og fremst Íslendingur. Hann var óaðskiljanlegur hluti hins vestur-íslenzka umhverfis, og hann setti mikinn svip á þetta umhverfi. Hann þekkti alla, og allir þekktu hann, ef svo mætti segja. Þegar raddir slíkra manna þagna, er sem breyting verði á náttúrulögmálinu, því að vér sjáum fyrst og fremst skarðið, sem höggvið er, og þetta skarð breytir svo miklu. Maður kemur að vísu í manns stað, en um fulla endurheimt er aldrei að ræða. En hér er hvorki stund né staður fyrir harmtölur. Þessi ber að minnast, að starfsdagur Einars Páls Jónssonar varð miklu lengri en margra annarra, því að starfskröftum hélt hann lítt skertum, þangað til síðasta árið, sem hann lifði.

Fyrir alllöngu síðan orti Einar eitt af fegurstu ljóðum sínum, „Við leiði móður minnar“. Þar er í þetta erindi:

„Skammt er bilið milli morgna og
nátta.
Mistur-hjúpinn vestræn elding
klýfur.
Þögul kennd um þankareit minn
svífur;
þreyttum syni bráðum mál að
hátta.“

Náttmál voru ekki á næsta leiti, þegar kvæðið var ort, en þegar leið að þeim, mátti greina, að þreyta færðist yfir Einar Pál. Sú þreyta var þó aðeins líkamleg. Andlegu fjöri hélt hann að kalla til hinztu stundar.

Einar Páll Jónsson var tvíkvæntur. Fyrri kona hans var Sigrún Marin Baldwinson, dóttir Baldwins Baldwinssonar, ritstjóra, þingmanns og fylkisritara í Manitoba. Seinni kona hans var Ingibjörg Vilhjálmsdóttir Sigurgeirsson, fyrrum kennslukona og síðar meðritstjóri Lögbergs. Frú Ingibjörg, sem var mjög samhent manni sínum í starfi, tók við aðalritstjórn Lögbergs við lát hans og er nú ritstjóri hins sameinaða blaðs Lögberg-Heimskringla.

Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi mun ávallt minnast Einars Páls Jónssonar með þökk og virðingu. Það munu og allir gera, sem kynntust honum.

JAKOBÍNA JOHNSON:

# Tvö kvæði

## GUÐRÚN J. ERLINGS, ÁTTRÆÐ

Þú unnir allri fegurð
og engu blómi gleymdir.
Í vermireit og vorsól
þú vináttuna geymdir.
Af skærum skilnings ljóma
þú skáldi þínu unnir,
og fáguð ljóð hans last þú fyrst og kunnir.

Þú miðlar ást og orku
sem eðallyndið tryggir.
Með höfðingsskap í hugblæ
er húsið sem þú byggir.
Þar skartar skáldsins minning,
þar skín þinn ævi-hróður,
og blómin eru lífs þíns ástaróður.

## ERFÐIR

„Fræð mig, ljúfi faðir minn," fávís innti mær.
„Eru Íslands erfðir eldgígir og snær?"
— „Dýrðleg eru norðurljósin, dóttir mín kær."

Heyrði 'ún hetjusagnir í hávetrar ró.
Litla, lága býlið varð langskip á sjó.
— „Myndauðgi, málsnilld og menning þar bjó."

Heyrði 'ún þjóðlag raulað — og hugfangin stóð.
Orðin féllu ylrík í ómfagurt ljóð.
— „Munblítt er málið kæra, mærin mín góð."

Heyrði 'ún tiginn þjóðsöng og hátíðarljóð.
Innblásið íslenzkt skáld orkti af móð.
— „Margþætt er málið kæra, mærin mín góð."

Prófessor RICHARD BECK:

# Aldarminning Þorsteins Erlingssonar

1858 — 1914 — 1958

Í fyrra haust voru liðin 100 ár frá fæðingu Þorsteins Erlingssonar; eins og vera bar, var aldarafmælis þess vinsæla merkisskálds minnzt með ýmsum hætti heima á Íslandi.

Bjarni Benediktsson frá Hofteigi ritaði allmikla bók um skáldið, er út kom á vegum Máls og menningar og hefir hlotið góða blaðadóma, en, því miður, hefi ég hana ekki við höndina, þegar þetta er skrifað. Ísafoldarprentsmiðja gaf út rit Þorsteins í þrem bindum, og sá Tómas Guðmundsson skáld um útgáfu ritsafnsins.



Á sjálfan aldarafmælisdaginn, 27. sept. 1958, efndu sveitungar Þorsteins til minningarhátíðar um hann austur að Hlíðarendakoti, þar sem afhjúpaður var minnisvarði, brjóstmynd á stöpli, af skáldinu, og vígður Þorsteinslundur, sem er afgirtur reitur umhverfis varðann hjá fossinum Drífanda. Hafði stjórn Rangæingafélagsins í Reykjavík annazt undirbúning og framkvæmdir hátíðarinnar, en formaður félagsins er Björn Þorsteinsson sagnfræðingur. Fjöldi manns sótti minningarhátíðina, og var forseti Íslands, herra Ásgeir Ásgeirsson, meðal samkomugesta. Annars er þessari virðulegu hátíð vel lýst í eftirfarandi frásögn í **Suðurlandi** (4. okt. 1958):

„Klukkan þrjú setti Hákon Guðmundsson hæstaréttarritari samkomuna. Þvínæst söng söngflokkur Rangæingafélagsins (tvöfaldur karlakvartett) héraðssöng Rangæinga. Þá flutti Björn Þorsteinsson ræðu. Lauk henni með því að hann bað Svanhildi dóttur Þorsteins Erlingssonar að afhjúpa varðann, en hann er gerður af frk. Nínu Sæmundsson frá Nikulásarhúsum, næsta bæ við Hlíðarendakot. Er þetta brjóstmynd úr bronsi á steinstöpli og er letruð á stöpulinn þessi hending úr kvæðum Þorsteins:

Mig langar að sá enga lygi þar finni,
sem lokar að síðustu bókinni minni.

Eftir afhjúpun varðans söng Sigurður Björnsson nokkur lög við

kvæði eftir Þorstein Erlingsson við undirleik Ragnars Björnssonar tónlistarmanns. Þessu næstu flutti dr. Sigurður Nordal ræðu um skáldið og manninn Þorstein Erlingsson, en á eftir flutti Þorsteinn Ö. Stephensen nokkur kvæði skáldsins. Að því loknu flutti séra Sigurður Einarsson skáld í Holti frumsamið kvæði, sem hann nefndi Þorsteinsminni, fagurt ljóð í fjórum köflum. Þessu næst flutti ávarp Sigurður Tómasson oddviti á Barkarstöðum og að lokum talaði Erlingur Þorsteinsson læknir, sonur Þorsteins Erlingssonar, og þakkaði fyrir hönd aðstandenda skáldsins þann sóma, sem því hefði nú verið sýndur."

Að hátíðinni lokinni efndu sýslunefnd Rangæinga og kaupfélögin Þór og Kaupfélag Rangæinga til samkvæmis í Hellubíói á Rangárvöllum. Björn Björnsson sýslumaður Rangæinga hafði veizlustjórn með höndum, en ræður fluttu forsetinn, herra Ásgeir Ásgeirsson, Björn sýslumaður, Ingólfur Jónsson alþingismaður, Páll Björgvinsson sýslunefndarmaður á Efra-Hvoli og Björn Þorsteinsson sagnfræðingur.

Ekki verður því annað með sanni sagt en að Rangæingar hafi, með miklum myndarskap, minnzt aldarafmælis hins þjóðfræga sonar sveitarinnar og afreka hans. Og þótt hér hafi verið stiklað á stóru, aðeins hins helzta getið, þá er auðsætt, að heimaþjóðin hefir sýnt það í verki á 100. afmæli Þorsteins Erlingssonar, að hún man hann og metur að verðleikum. Hins vegar hefir afmælis hans ekki verið sérstaklega minnzt meðal Íslendinga vestan hafs, og er þessari ritgerð ætlað að bæta ofurlítið úr þeirri vanrækslu. En Þorsteinn átti á sínum tíma fjölda aðdáenda í hópi Íslendinga hérlendis og víðtækum vinsældum að fagna; hafði mikil áhrif á ýmis skáld vor og fleiri, eins og síðar mun nánar vikið að, og hann á enn djúp ítök í hugum margra af eldri kynslóðinni. Vitanlega átti hann einnig hérna megin hafsins, eins og heima á ættjörðinni, ramma andstæðinga vegna róttækra skoðana sinna í þjóðmálum og trúmálum.

## I.

Þorsteinn Erlingsson var fæddur að Stórumörk í Rangárvallasýslu 27. sept. 1858, en fluttist barnungur að Hlíðarendakoti í Fljótshlíð og ólst þar upp. Þar fara saman mikil náttúrufegurð og sögufrægð, því að **Njála** gerist á þeim slóðum, eins og alkunnugt er. Fór það mjög að vonum, að hið hrifnæma skáld varð fyrir varanlegum áhrifum af svipmiklu og söguríku æskuumhverfi sínu, enda bar hann í brjósti djúpstæðar minningar um æskustöðvarnar og hefir lýst þeim á fagran og ógleymanlegan hátt í kvæðum sínum.

Góðar og traustar bændaættir stóðu að Þorsteini á báðar hendur, og skáldgáfa hafði komið fram í föðurætt hans. Sr. Páll Jónsson „skáldi" var náfrændi Þorsteins, móðurbróðir Helgu Erlingsdóttur, ömmu hans og fóstru í Hlíðarendakoti.

Það var fyrir áeggjan og uppörvun þeirra þjóðskáldanna Steingríms Thorsteinssonar og séra Matthíasar Jochumssonar, að Þorsteinn Erlingsson gekk menntabrautina. Þeir Steingrímur og Matthías komu að Hlíðarendakoti sumarið 1876 og kynntust þá Þorsteini. Fer Matthías um það eftirfarandi orðum í **Söguköflum** sínum: „Við Steingrímur

Thorsteinsson fundum pilt austur í Fljótshlíð, er okkur þótti gott mannsefni. Það var Þorsteinn Erlingsson. Steingrímur kenndi honum latínu um veturinn, en að öðru leyti dvaldist hann mest hjá okkur, og útvegaði ég honum töluverðan fjárstyrk hjá góðum mönnum.“

Í kaflanum „Þeir fundu pilt“ í hinni prýðilegu inngangsritgerð sinni um Þorstein Erlingsson að fjórðu útgáfunni af **Þyrnum** (Rvík, 1943) hefir dr. Sigurður Nordal ritað ítarlega um fyrstu fundi þeirra þjóðskáldanna og Þorsteins og um það brautargengi, er þeir og þriðja höfuðskáld þeirrar tíðar, Benedikt Gröndal, veittu honum á námsbrautinni. Farast dr. Nordal meðal annars þannig orð:

„Þorsteinn fór haustið 1876 til Reykjavíkur, byrjaði að læra þar undir skóla, og þá kom á prent í **Þjóðólfi** fyrsta kvæði hans, erfiljóð eftir Pál Pálsson frá Árkvörn. Um veturinn naut Þorsteinn kennslu höfuðskáldanna þriggja, Matthíasar, Steingríms og Gröndals. Við tvo hina síðar nefndu batt hann vináttu, sem hélzt órofin til æviloka þeirra. En Matthías þóttist heldur kenna kulda af ritum hans sér til handa og segist ekki vita, hvernig á því hafi staðið (**Sögukaflar**, 295). Það er þó ekki vandskilið. Þorsteinn varð á skólaárum sínum miklu handgengnari Steingrími og hneigðist meir að skáldskaparstefnu hans. Eitt af því, sem íslenzkir stúdentar á Hafnarárum Þorsteins fundu sér til deiluefnis, voru þeir Matthías og Steingrímur. Var Þorsteinn í þeim flokknum, er hélt Steingrími fram. Þá var og greinilegri skoðanamunur með þeim Matthíasi og Þorsteini. En rétt er að geta þess, að Þorsteinn kunni fyllilega að meta skáldskap Matthíasar. Ég heyrði hann fara með erindi úr kvæðum Matthíasar, og viknaði hann við af fegurð þeirra.“

Kvæði Þorsteins frá yngri árum bera því vitni, hve mjög hann heillaðist af skáldskaparstíl Steingríms; ást hans og aðdáun á meistaranum hélzt óbreytt, og lýsir það sér glöggt í hinu fagra kvæði „Minni Steingríms Thorsteinssonar“, á átttugasta afmælisdegi hans, 19. maí 1911, og þá eigi síður í snjöllu erfiljóðinu um hann. Fagurlega minnist Þorsteinn einnig Benedikts Gröndals, bæði í vísunum „Til Gröndals“, ort á áttræðisafmæli hans, 6. okt. 1906, og í erfiljóðunum um hann, er lýkur með þessu yndislega erindi:

Við krjúpum ekki' að leiði lágu,
því listin á sjer paradís;
nú streyma Gröndals hljómar háu
af hafi því, sem aldrei frýs.
Hvern snilling þangað baninn ber,
sem Bjarni' og Jónas kominn er.

Eftir sex ára nám í Lærða skólanum í Reykjavík brautskráðist Þorsteinn vorið 1883. Kornungur hafði hann byrjað að yrkja, og það var vitanlega skáldhneigð hans og æskuljóð, sem vakið hafði athygli á honum og varð til þess, að þjóðskáldin og aðrir velunnarar gerðu honum fært að ganga menntabrautina. Flest af því, sem hann orti, áður en hann kom í skóla, er nú glatað, en allmargt af kvæðum hans frá skólaárunum er til í handriti og sumt prentað, aðallega í **Söngvum og kvæðum**, sem Jónas Helgason gaf út 1881, og í **Söngkennslubók** hans frá 1883. Úrval úr ljóðum Þorsteins frá þessum

árum er að finna í sérstökum kafla í fjórðu útgáfu **Þyrna** og einnig í hinu nýja ritsafni skáldsins.

Þessi fyrstu prentuðu kvæði hans bera, eins og þegar er gefið í skyn, merki áhrifa frá Steingrími Thorsteinsson um rómantísk yrkisefni, en jafnframt benda þau fram á við, og getur glöggt auga greint þar mörg helztu sérkenni, er svipmerktu seinni og þroskaðri kvæði skáldsins. Dr. S. Nordal hefir laukrétt að mæla, er hann segir í fyrrgreindri inngangsritgerð sinni:

„Þorsteinn gekk alveg fram hjá æskuljóðum sínum, er hann gaf **Þyrna** út. Í þeim kemur samt fram ýmislegt, sem telja má til aðalþátta í skáldskap hans alla tíð, þótt hann hefði ekki enn þá fundið því svo fullkominn og sérstæðan búning sem síðar varð: draumlyndi, viðkvæmni með nokkrum þunglyndisblæ, söknuður æsku og æskugleði. Hann yrkir um farfuglinn, sem Ísland seiðir til sín, þótt hans bíði þar mislynd veðrátta og hrjóstrug náttúra. En dýrin og framar öllu fuglarnir urðu honum löngum að yrkisefni. Ættjarðarást hans er þegar heit og vakandi, og pilturinn, sem aldrei hafði komið út fyrir landsteinana, þorir að segja um Ísland þessi einföldu og máttugu orð:

Það líkist engum löndum.

Í vísunni „Nú tjaldar foldin fríða“ togast glaðlyndið á við bölsýnina. Og í kvæðinu til Jóns söðlasmiðs í Hlíðarendakoti, sem Þorsteinn sendi honum heim, nýkominn til Hafnar, koma fram tryggð og ræktarsemi, sem alla ævi voru grunntónar í eðli hans. Þess sjást ekki merki, að Þorsteinn hafi á skólaárum sínum orðið snortinn af þeim kvæðum Steingríms og vísum, sem voru ádeilur og napurt háð, svo að hann tæki sér þau til fyrirmyndar. Hið fagra, þýða og klökkva virtist samræmara eðlisfari hans.“

Í þessum æskuljóðum Þorsteins, sem mörg hver eru löngu orðin almenningseign og lifa áfram á vörum Íslendinga beggja megin hafsins, var það vorblærinn, mildur og hlýr, er, um annað fram, ómaði í hörpuhljómum skáldsins. En í þeim kvæðunum, sem hann sendi heim um haf eftir nokkurra ára dvöl í Kaupmannahöfn, kvað heldur en ekki við annan tón. Nú geisaði hvassviðrið í strengjum hans, svo að mörgum þótti meir en nóg um þann storm, sem þar stóð af hafi.

Þorsteinn hóf nám í Hafnarháskóla haustið 1883 og lagði stund á lögfræði, en seinna hneigðist hugur hans að málfræði og bókmenntum, sérstaklega norrænum fræðum. Leið heldur eigi á löngu, þar til hann hvarf algerlega frá háskólanáminu, af ástæðum, sem síðar verða greindar, og helgaði sig ritstörfunum. Háði hann á síðari árum sínum í Kaupmannahöfn harða baráttu við fátækt, er svarf svo að honum, að hann beið varanlegt tjón á heilsu sinni.

Þorsteinn fluttist heim til Íslands alfarinn árið 1896 og vann við blaðamennsku næstu árin. Hann var ritstjóri vikublaðsins **Bjarka** á Seyðisfirði rúm þrjú ár, 1896—1899, dvaldi í Reykjavík aldamótaveturinn, stofnaði blaðið **Arnfirðing** á Bíldudal haustið 1901 og var ritstjóri þess til sumarsins 1902, er hann fluttist til Reykjavíkur, og átti þar heima jafnan síðan; hann gaf **Arnfirðing** út þar

fram í janúar 1903, en þá hætti hann ritstjórn með öllu.

Blaðamennskan var Þorsteini lítt að skapi, enda þótti mönnum ekki kveða eins mikið að honum á því sviði eins og þeir höfðu vænzt eftir, og má þó ýmislegt gott segja um blöð þau, er hann stýrði. Einnig er ekki nema sanngjarnt að taka með í reikninginn aðstæður hans við blaðamennskuna. Bendir Jón Jónsson fyrrv. alþingismaður frá Sleðbrjót réttilega á það í athyglisverðri minningargrein, sem hann skrifaði um Þorstein í tímaritið **Skuggsjá** (febr. 1917). Bregður sá kafli greinarinnar, er hér um ræðir, einnig upp átakanlegri mynd af heilsufari Þorsteins, en þannig falla Jóni orð:

„Jafnan tók Þorsteinn því vel, ef eitthvað var fundið að ritstörfum hans. Mörgum er þekktu Þ. Erl. urðu það vonbrigði, að blaðamennska hans varð ekki áhrifameiri en hún var. Þorsteinn var allra manna fróðastur um landsmál og landshagi, víðsýnn og vel menntaður, og það var bæði gagn og gaman að ræða við hann um stjórnmál og mannfélagsmál, skáldskap og margt annað. Út úr þessum umræðum barst einu sinni í tal, bæði í gamni og alvöru, milli okkar um blaðamennsku hans. Jeg sagði þá við hann eitthvað á þá leið, að þegar hann væri að tala við mig og aðra um landsmál, væri hann svo fróður og víðsýnn, að unun væri að. En þegar hann færi að skrifa um sama efni í blaðið, væri það oft svo veigalítið. Ég sagði þetta svo góðlátlega sem ég kunni, því mér var hlýtt til Þorsteins og unni honum sæmdar og gengis í hvívetna. Þorsteinn brosti, en var eins og hálfþungt um svar. „Þetta eru nú skammir, Jón," sagði hann. „En því er nú ver, að þær eru að miklu sannar, og alltaf finnur maður nú þegar skammirnar eru af góðum hug sagðar. En gáðu nú að ástæðunum. Þú veizt hvernig heilsan mín er, hefir heyrt hóstann og séð blóðuppganginn, sem þreytir mig á morgnana. Og þegar ég kem á fætur er ég lengi að jafna mig. Og svo koma blessaðir gestirnir allan daginn. Þið komið margir kærir kunningjar og þar utan ýmsir í ýmsum erindum, sumir að biðja einhverrar smábónar og sumir bara til að „rövla" um einhverja vitleysu. En ég verð að gæta gestrisnis-skyldunnar, og allra bón langar mig til að gera, ef þeir eiga bágt. Svona líður dagurinn, og kvöldið kemur og oft hefur ekkert orðið úr verki. Þá verð ég að fara að skrifa í blaðið andlega og líkamlega þreyttur, og því verða ritgerðirnar eins og kvæðin, þegar skáldgyðjan er tekin nauðungartaki."

Eftir að Þorsteinn fluttist til Reykjavíkur, þar sem hann átti heima til dauðadags, 28. sept. 1914, vann hann að miklu leyti fyrir sér og sínum með tímakennslu, og vita allir, sem við hana hafa fengizt, hve þreytandi hún er, og lítt til þess fallin að blása skáldi byr undir vængi til frjósamrar andlegrar iðju. Frá árinu 1895 að telja naut Þorsteinn að sönnu nokkurra skáldalauna úr landssjóði, en þau náðu skammt til þess að gera honum kleift að sjá sér og sínum farborða. Voru skáldalaun þessi bæði skorin við nögl og umdeild á Alþingi, skáldinu mjög til ama og gremju. Rétt er að geta þess hér, að vinir og velunnarar Þorsteins í hópi landa hans vestan hafsins sendu honum eitt

sinn myndarlega fjárgjöf á þeirrar tíðar mælikvarða, sbr. vísur hans „Til Vestur-Íslendinga, sem sendu mér 500 krónur með sr. Rögnvaldi 1912". Kom sú sending sér vel, eins og sjá má af ummælum Þorsteins í bréfi til Stephans G. Stephanssonar (St. G. St., **Bréf** II, 35).

Hjúskaparmál Þorsteins Erlingssonar ræðir dr. Sigurður Nordal af mikilli glöggskyggni og samúð í kaflanum „Við erum svo rík", í fyrrnefndri inngangsritgerð að **Þyrnum**, og geta þeir, sem kynnast vilja nánar þeirri hliðinni á lífi skáldsins, leitað þangað til fræðslu. Á hitt verður ekki lögð of mikil áherzla, hve frábæran förunaut skáldið eignaðist í konu sinni, frú Guðrúnu J. Erlings, og lýsa kvæði hans og vísur til hennar því fagurlega, hvað vel hann kunni að meta hana og það ágæta heimili, sem hún bjó honum og börnum þeirra.

Sjálf hefir frú Guðrún lýst bæði því, hversu ágætur heimilisfaðir Þorsteinn var og einnig vinnubrögðum hans sem skálds í einkar hugþekku og merkilegu viðtali við Valtý Stefánsson ritstjóra (**Lesbók Morgunblaðsins**, Jólablað 1939, endurprentað í bók Valtýs **Þau gerðu garðinn frægan**, 1956). Í þessu viðtali segir frú Guðrún meðal annars:

„Betri heimilisföður en hann get ég ekki hugsað mér, síkátur og glaður og yngstur meðal þeirra ungu. Og barngóður með afbrigðum. Það var mesta yndi hans að leika sér við börnin og segja þeim sögur, þegar hann hafði tíma til þess.

Í kvæði Guðm. Guðmundssonar um Þorstein lýsti hann hinum barngóða heimilisföður með þessum orðum:

Og kærleikans kvöldljóð
þú kvaðst yfir sæng,
er breiddirðu yfir blundandi
börnin þinn væng.

En Guðmundur var tíður gestur á heimili okkar og var mikil vinátta milli Þorsteins og hans. Hafði Þorsteinn mætur á hinni leikandi „lyrik" Guðmundar og hinum fyndnu stökum hans."

Alkunnugt er, hve framúrskarandi vandvirkur Þorsteinn Erlingsson var í ljóðagerðinni, og dregur frú Guðrún athygli lesenda að því í lýsingu sinni á vinnubrögðum hans. Jafnframt segir hún skemmtilega frásögn, er sýnir það, að Þorsteinn gat einnig verið hraðkvæður, þegar því var að skipta. Sú saga er á þessa leið:

„Oftast, sem sagt, var hann lengi að ganga frá kvæðum sínum, þó hann stundum væri aftur mjög fljótur. Og stökum gat hann vitanlega varpað fram er svo bar undir, eins hratt og mæltu máli.

Ég man t. d. eftir einni vísu, sem þanngi varð til, og aldrei hefir komið á prent.

Tilefnið var þetta. Hann var mjög elskur að stofublómum, og voru alltaf blóm í stofugluggum okkar. Eitt sinn áskotnaðist mér lítil planta, sem ég vissi ekki deili á. Hún var höfð í glugganum við borð hans. Hún óx svo ört, að einhver sagði að hún yxi eins og illgresi. Síðan kölluðum við hana „illgresið". Eitt sinn bar ég öll blómin út í hlýinda regn þeim til hressingar. Hann kom heim, er þessu var lokið. En ég hafði skilið „illgresið" eftir inni. Blöðin á því voru svo pasturslítil, að ég treysti þeim ekki til að standast úrfellið.

Er hann sér þetta, tekur hann blómsturpottinn með hinni veikbyggðu jurt, og segir brosandi:

Þið hafið illa inni gleymt
illgresinu mínu.
Það hefir líka á daginn dreymt
dögg í horni sínu.

II.

Dvalarár Þorsteins Erlingssonar í Kaupmannahöfn réðu örlög hans sem skálds, mótuðu lífsskoðanir hans og skáldskaparstefnu. Hann komst þar undir áhrif Georgs Brandesar og raunsæisstefnu hans í bókmenntum og varð eindreginn og eldheitur jafnaðarmaður í þjóðmálum. Kvæði hans frá Kaupmannahafnarárunum bera því gleggst vitni, hve sterklega stormar og straumar samtíðarinnar höfðu orkað á sálarlíf Þorsteins.

Hann kvað sér hljóðs sem ádeiluskáld, eins og þjóðkunnugt er, með snjöllu kvæði sínu á hundrað ára afmæli málfræðingsins mikla, Rasmusar Kristjáns Rasks (1887). Lofsyngur skáldið þar að verðleikum hinn þjóðholla Íslandsvin, en jafnframt er kvæðið hörð og beinskeytt árás á stjórn Dana á Íslandi að fornu og nýju. Olli kvæði þetta hneyksli, sem sögufrægt er orðið, og hlaut skáldið ofanígjöf frá Hafnarháskóla, en hann var þar þá við nám.

Vafalaust er það rétt athugað, að þessi áminning af hálfu háskólans hafi átt sinn þátt í því, að Þorsteinn hætti við laganámið, enda fullyrðir Guðmundur Hannesson prófessor það berum orðum í eftirmælum um Þorstein í **Ísafold** 30. september 1914. Hins vegar mun einnig óhætt mega fullyrða, að hin mikla athygli, sem kvæðið vakti, og það hrós, sem það hlaut úr ýmsum áttum, hafi orðið skáldinu hvatning til þess að gefa sig nú meir en áður að skáldskap og ritstörfum. En því fylgdi, eins og þegar er gefið í skyn, að hann varð að leggja svo hart að sér við lestur og kennslu, að hann beið óbætanlegt tjón á heilsu sinni. Laukrétt er það athugað, að það er ekki út í bláinn sagt, er Þorsteinn kvað þessar ljóðlínur:

Ég veit, hvað svöngum vetur er,
þú veizt það kannske líka.

En þótt hann þekkti þannig af beiskri raun baráttuna við hungur og önnur andvíg lífskjör, voru það samt sambærileg eða enn þá verri kjör annarra, sem gerðu hann jafnaðarmann og byltingamann í þjóðmálum. Sú afstaða hans átti sér langa sögu og djúpar rætur í lífsreynslu hans. „Dýpst gróf inn í mig sjón, sem ég sá hér í koti á Eyrarbakka 1880,“ skrifaði hann í bréfi til Sigurðar Guðmundssonar skólameistara 20. marz 1907, „og önnur, sem ég sá í Litla Strandstræti í kjallara veturinn 1892—93,“ bætir hann við. („Við andlát Þorsteins Erlingssonar“, í **Heiðnum hugvekjum og mannaminnum**, Akureyri, 1946).

Þegar alls er gætt, var það því mjög eðlilegt, að Þorsteinn Erlingsson skipaði sér eindregið í flokk þeirra manna, sem kröfðust meira þjóðfélagslegs réttlætis og jafnréttis, enda varð harðvítug og hiklaus ádeilan á þjóðfélagið skjótt meginstraumur í skáldskap hans; kemur það kröftuglega fram í mörgum þeim kvæðum hans, sem birtust í **Sunnanfara** 1891—1895, og enn öðr-

um síðar í **Eimreiðinni.** Kvæði þessi, hvort heldur þau voru í ádeilustíl eða ljóðræn að eðli, sýndu deginum ljósar, að skáldið hafði fundið sjálft sig til fullnustu, enda féllu þau í frjóan jarðveg hjá löndum hans beggja megin hafsins. Hér var að verki skáld, er var hvort tveggja í senn harðskeyttur en vorhugaður uppreisnarmaður og fágætur ljóðsnillingur. „Íslenzk þjóð hlustaði hugfangin, þó að á misjafna strengi væri slegið. Sumir voru grátklökkir. Aðrir fagnandi. Það var hressandi, morgunkenndur snilldar-hreimur í orðalaginu, hvað sem maðurinn var að segja. Þeir, sem voru meira og minna reiðir, hlustuðu líka. Þeir létu bugast af dularmagni listarinnar," segir Einar H. Kvaran rithöfundur í minningargrein sinni um Þorstein (**Lögrétta**, 7. okt. 1914).

Allt varð þetta enn þá auðsærra, þegar **Þyrnar** Þorsteins komu út í fyrsta sinn 1897, og í kjölfar þeirrar útgáfu þrjár auknar útgáfur þeirra, 1905, 1918 og 1943. Að sjálfsögðu eru þeir einnig í hinu nýja ritsafni Þorsteins (1958), ásamt með hinum merkilega kvæðaflokki hans **Eiðnum**, er áður hafði komið út þrem sinnum, 1913, 1925 og 1937. Í hinu nýja ritsafni hans eru einnig flest rit hans í óbundnu máli, og enn fremur nokkrar ritgerðir hans.

Í fyrstu útgáfu **Þyrna** eru mörg merkustu og sérkennilegustu kvæði Þorsteins Erlingssonar, og þar lýsa sér jafnframt ágætlega meginstraumarnir tveir í skáldskap hans: Ljóðræni og þjóðlegi strengurinn og ádeilan og byltingahugurinn; skipa þessi fjarskyldu kvæði hans að efni til nokkurn veginn jafnt rúm í safninu. Hér eru, annars vegar, sum af snilldarlegustu ættjarðarkvæðum hans, náttúru- og ástaljóðum, svo sem „Lágnætti", „Sólskríkjan", „Vorkvæði" og „Mansaungvar"; og, hins vegar, byltingakvæðin, sem flytja hugsjónir hans og rök, samhliða hvössum þjóðfélagslegum ádeilum, „Örlög guðanna", „Arfurinn", „Skilmálarnir", „Örbirgð og auður", „Vestmenn" og „Á spítalanum", en í þeim ræðst höfundurinn vægðarlaust á þröngsýni og hræsni í trúarefnum, og ranglætið í þjóðfélagsmálum. Hann var jafn róttækur í trúmálum sem þjóðmálum, vó djarflega á báðar hendur og vildi steypa af stóli öllum harðstjórum. Hann réðist jöfnum höndum og jafn óvægilega á konungsvald, auðvald og kirkjuna. Þeim skyldi af veldisstóli hrundið með allsherjar byltingu, en frelsi og jafnrétti skipað í öndvegissess.

Eins og vænta mátti, mættu harðvítugar árásir Þorsteins á þjóðfélagsstofnanir og gamalgrónar skoðanir, ekki sízt í trúarefnum, harðri mótspyrnu og sætti hann fyrir það bæði misskilningi og hlaut í ríkum mæli heiptaryrði og fordæmingu andstæðinga sinna. En eftir því, sem frá hefir liðið, hafa dómarnir um þau kvæði hans orðið hófsamlegri, enda hafa sjónarmiðin að ýmsu leyti breytzt, síðan þau kvæði voru ort og birt upprunalega. Og á hinn bóginn átti Þorsteinn einnig frá upphafi vega fjölda skapheitra og trúrra aðdáenda, enda er óneitanlega margt aðdáunarvert um þessi ádeilukvæði hans: eldmóðurinn og mælskan í tjáningu skoðana hans og djúp samúð hans með öllu, sem anda dregur, hinum snauðu, veiku, samúð, sem tekur ekki aðeins til olnbogabarn-

